# LÖG

## VERZLUNARFÈLAGSINS

í

**Reykjavík.**

# LÖG

# VERZLUNARFÈLAGSINS

í

**Reykjavíkur kaupstað,**

sem

stofnað er vorið

**1848.**



**Reykjavík.**

Prentuð í prentsmiðju landsins, af H. Helgasyni.

1848.

# Formáli.

Af því þeir, sem geingið hafa í verzlunarfèlag í Reykjavíkur kaupstað, eru að eins ein deild aðalfèlags þess, sem fyrir skemstu er stofnað þar *til framkvæmdar ýmsum nytsömum fyrirtækjum*, þá eru í þessum lögum ekki teknar fram neinar sèrstakar reglur, hvorki viðvíkjandi innri stjórn aðalfèlagsins, nè sèrstakra deilda þess á fundum. En það þykir vel hlýða að drepa með fám orðum á aðal-tilgáng verzlunarfèlags þessa, en hann er:

1. Að efla sem mest verður vöndun allrar innlendrar vöru.
2. Að efla frjálsa og ábatasama verzlun landsbúa við kaupmenn.
3. Að losa svo marga fátæka, en reglusama dugnaðarmenn, sem fèlagið álítur sig fært um, við kaupstaðarskuldir með leigulausu láni.
4. Að efla trausta samheldni og ötular framkvæmdir fèlagsins, með því að stofna sam-

eiginlegan sjóð af nokkrum hluta verzlunarágóðans.

Svo að þessum tilgángi geti orðið framgeingt, hefir fèlagið sett sèr og bundið sig eptirfylgjandi lögum.

# I.

## *Um forstöðumenn fèlagsins yfir höfuð, og kosningu þeirra.*

1. Fèlaginu skulu forstöðu veita.

A. *2 Umboðsmenn*,
B. *2 Verzlunarfulltrúar*,
C. *2 Varafulltrúar*,
D. *2 Verzlunarskrifarar*,
E. *1 Gjaldkeri.*

2. Þessir menn skulu kosnir með atkvæðafjölda til eins árs, á aðalfèlags fundi hinum fyrsta í sumri ár hvert. Hljóti einhverjir jafnmörg atkvæði, skal aptur greiða atkvæði um þá að nýu; verði þá enn atkvæðin jafnmörg, skal hlutkesti ráða.

3. Sömu forstöðumenn má kjósa árið eptir, ef þeir ekki fyrir fram skorast undan því,

annaðhvort brèflega til forseta, eður opinberlega á kosníngar fundinum.

4. Einginn má skorast undan kosníngum í fleiri ár, enhann hefir samfleytt haft forstöðu á hendi, t. a. m. hafi einhver haft þau störf á hendi í tvö ár, má hann skorast undan vali næstu tvö ár á eptir, en ekki þriðja árið.

5. Þeir, sem voru varafulltrúar árið fyrir, mega ekki skorast undan kosníngu til einhverrar forstöðu næsta ár.

6. Til forstöðumanna má hvorki kjósa forseta nè skrifara aðalfèlagsins; eingan, sem gjörsamlega er húsbónda háður; eingan, sem er ýngri en 25 ára; þó mega skrifararnir vera ýngri, ef þá ekki skortir aðra hæfilegleika; eingan, sem ekki er heimilisfastur í lögsagnar-umdæmi Reykjavíkur kaupstaðar.

## II.

### *Ætlunarverk forstöðumannanna.*

A. Umboðsmennirnir hafa á hendi aðalumsjón fèlagsins, að því leyti sem þeir skulu

1. taka við skýrslum fèlagsmanna um tillög þeirra til verzlunarinnar.
2. yfirfara og aðgæta gagnskilabækur fèlagsmanna, þá skrifarar hafa ritað í þær úttekna og innlagða vöru.
3. ransaka verzlunarsjóðinn 8 sinnum á ári, og optar ef þurfa þykir, eður ef gjaldkeri

þykir í nokkru tortryggjandi, og svo ágrips-reiknínga hans.

4. ráða því með gjaldkera, hverjum, og hvað mikið í hvert sinn er úr sjóðnum lèð á leigu.
5. skipa til útgjalda úr sjóðnum óumflýanleg smágjöld til nauðsynja og þarfa fèlaginu, t. a. m. fyrir aðalbækur umboðsmanna og gjaldkera, o. fl. þessh.

Umboðsmennirnir skulu hafa aðalbók í arkarbroti, svo stóra, að hverjum fèlagsmanni megi ætla 2 opnur. Hverri opnu skal skipt eptir meðfylgjandi sýnishorni A, í fjóra aðaldálka, tvo áætlunardálka, yfir lofaða vöru innlenda og pantaða vöru útlenda, og aðra tvo dálka yfir þá vöru, sem í raun og veru er tekin út og lögð inn. Að því búnu taka umboðsmennirnir skýrslu af hverjum fèlagsmanni um tillag hans til verzlunarinnar, í hverju það verði goldið, hvort í vöru, og hvers kyns, eður í peníngum, og rita það í annan áætlunardálkinn, en í hinn, hvað þeir vilja panta mikið af hverri aðaltegund útlendrar vöru að dala-tali, af kornvöru, af kaffi og sikur, af annari vöru og af peníngum. Eptir áætlunar-dálkunum búa þeir til aðal yfirlit, lagað sem bókin sjálf yfir upphæð bæði hverrar vörutegundar um sig að dalatali, og svo allrar vöru og peninga yfir höfuð, sem til verzlunarinnar skal gánga það árið, eins yfir útlendu

vörurnar, sem pantaðar eru, eptir þeirri flokkaskipun, sem nú var tilgreind.

Umboðsmennirnir taka við gagnskilabók hvers fèlagsmanns hjá skrifurunum, undir eins og verzluninni er lokið, yfir fara þær, hvort rètt sè reiknað, og undirskrifa, og rita síðan eptir þeim í hina 2 dálkana í aðalbókina upphæð þess, sem inn er lagt og út er tekið; að svo búnu afhenda þeir fèlagsmanni hverjum sína gagnskilabók.

Umboðsmennirnir skulu semja nafnaskrá og yfirlit yfir alla fèlagsmenn með upphæð þess, er hver hefir lagt til verzlunar, og afhenda gjaldkera, lagað eptir sýnishorninu B.

B. Verzlunarfulltrúarnir skulu eptir yfirliti því, sem umboðsmennirnir fá þeim yfir lofaða vöru og penínga og yfir pantaða vöru, semja við þann eða þá kaupmenn, sem þeir komast að beztum kjörum og kaupum hjá; þeir skulu semja þannig, og taka skriflegt hjá kaupmanni, að fèlagsmenn sæti hjá honum þeim kaupkostum og verðlagi á allri vöru, er þeir láta af hendi og taka við, sem bezt fæst það árið, og að auki tiltekna upphæð af hverjum 100 rbd. í kaupbætur.

Þeir kalla saman fèlagsmenn til að taka á móti vörum sínum.

Ef þarfa-vörur bjóðast til láns, með ábatasömum kjörum og án þess vaxta sè krafizt,

skulu fulltrúarnir þiggja slík lán, einkum ef þau bjóðast á vorin; skulu þeir sjá um, að þvílíkar láns-vörur skiptist sem jafnast gegn peníngum úti hönd meðal fèlagsmanna, að tiltölu við tillög þeirra.

Fulltrúarnir skoði vandlega alla innlenda vöru, áður en hún er afhent kaupmanni. Hvenær sem kaupmenn og fèlagsmenn greinir á um vörugæðin, þá leitist fulltrúar við að jafna ágreiníngin, eða reki aptur vöruna, ef hún er miður vönduð, en skyldi.

Fulltrúarnir semja við kaupmenn þá, er skuldir eiga að krefja hjá fèlagsmönnum, um kvittun þeirra með svo vægum afdrætti, sem verða má, og gefa gjaldkera skýrslu um það.

Fulltrúarnir standa gjaldkera skil á öllum kaupbótum, sem þeir afhenda honum í peníngum að mestum hluta, þegar þeir hafa samið við kaupmenn; en eptirstöðvarnar, þegar allri verzluninni er lokið.

C. Varafulltrúarnir eru skyldir að gegna öllum störfum aðalfulltrúanna, hvenær sem þeir geta ei sjálfir við verið, og þeir gjöra þá áður vara við.

D. Skrifararnir skulu rita í gagnskilabækur fèlagsmanna þann útlenda varníng, sem þeir hafa pantað, og verzlunarfulltrúarnir afhenda þeim; skrifararnir sèu því jafnan til taks, hvenær sem fulltrúarnir kveðja þá til þessa

verks; þeir skulu á sama hátt rita í gagnskilabækurnar vöru þá, sem fèlagsmenn leggja inn. Hvorutveggju vörunni, bæði hinni innlendu og útlendu, skulu þeir skipta í flokka eptir yfirlitinu og aðalbókinni; að síðustu skulu þeir leggja saman upphæð hinnar útteknu og innlögðu vöru, tilgreina hvort of eða van sè úttekið, og afhenda gagnskilabækurnar að því búnu umboðsmönnunum.

E. Gjaldkerinn hefir á hendi alla umsjón og reiknínga verzlunarsjóðsins, og geymslu hans; hann tekur við öllum inngjöldum sjóðsins og kvittar fyrir; hann greiði og af hendi, án þess skipun umboðsmanna komi til, öll hin lögboðnu og stöðugu útgjöld, en þau eru: kvittun kaupstaðarskulda eptir samníngi fulltrúa; verzlunarágóði hvers fèlagsmanns af tillagi hans; endurgjöld til fèlagsmanna fyrir undanfarin tillög þeirra til skuldalúknínga, og vextir af innstæðum þeirra í fasta sjóðnum, þegar þær hver um sig eru orðnar 25 rbd.

Inngjöld öll og útgjöld ritar gjaldkeri í dagbók; eptir henni semur hann ágrips-reikníng fyrir hverja 3 mánuði, og aðalreikníng 30. Sept. ár hvert eptir sýnishorninu C.

Á nafnaskrá þeirri og yfirliti, er umboðsmennirnir fá gjaldkera, skal hann gjöra grein fyrir aðalupphæð verzlunarágóðans, hve miklu af honum sè varið til skuldalúknínga, hve mik-

ið sè goldið hverjum fèlaga, og hve mikið sè geingið til verzlunarsjóðsins; nafnaskráin og yfirlit umboðsmanna, með þessum skýrslum gjaldkera, skal lagað eptir sýnishorninu B, og skal gjaldkeri leggja það fram með aðalreikníngum og skírskota til þess.

Afgáng verzlunar ágóðans, þann er eptir skýrslunni geingur í verzlunarsjóðinn, og eins það, sem varið er til skuldalúkninga, ritar gjaldkeri í gagnskilabók hvers fèlaga, lagaða eptir sýnishorninu D.

Gjaldkeri skal og hafa bók sèr yfir alla þá, er fèlagið tekst á hendur að losa úr skuldum, ætla hverjum þeirra blaðsíðu, þar getið sè annarsvegar aðalupphæðar skuldarinnar, og svo hve mikið sè upp í hana goldið kaupmanni, en hins vegar hvað og hvenær nokkuð er upp í hana endurgoldið til sjóðsins. Jafnmikið og hinir skuldugu endurgjalda, skal hann fá fèlagsmönnum aptur að rèttri tiltölu, eptir því sem hver hefir lagt til til skuldalúkninga undanfarin ár, og skýrslur hans þau árin sýna, ef þeir krefjast þess.

Eingum má gjaldkeri neitt lána úr sjóðnum, nema með leyfi umboðsmanna; þó skulu þeir, áður en þeir veita einhverjum vilyrði fyrir láni, ráðfæra sig við gjaldkera. Gjaldkeri skal taka fyrir hverju láni skýlaust skuldabrèf með ákveðnum gjaldfresti og leigu, orðað

á þann hátt, sem fèlagið síðar ákveður með sýnishorni til þvílíkra skuldabrèfa.

Skuldabrèf þessi geymir hann í fèhirzlunni, en uppteikun þeirra hjá sèr, og semur árlega skilagrein yfir vextina, og skal þar einnig getið upphæðar og dagsetníngar skuldabrèfanna.

Gjaldkeri skal skyldur að þola ransókn sjóðsins, hvenær sem umboðsmenn beiðast, auk þess sem þeir eru skyldir til þess 8 sinnum á ári; hann má aldrei hafa í sínum hirzlum að mánaðarlokum meira, en 50 rbd., heldur leggur hann hitt í aðalhirzluna.

Gjaldkeri skal leggja aðalreikníng sinn fram á næsta fundi á eptir 30. Sept. ár hvert; með atkvæðafjölda skulu þá menn kjörnir til að skoða reikníngin og finna að, ef verður. Umboðsmenn og fulltrúar skera úr þeim aðfinníngum, þegar gjaldkeri er búinn að svara þeim, og skal sú gjörð vera bindandi bæði fyrir gjaldkera og alla, sem hlut eiga að.

## III.

## *Um verzlunarsjóðinn, tilgáng hans, inn- og útgjöld og geymslu.*

Sjóðurinn stofnast og viðhelzt:

1. af verzlunarágóða þeim, er fram yfir verður 9 rbd. af 100 rbd.

2. af leigulausu láni kaupmanna, sem við er skipt.
3. af leigum, sem fást af lèðum peníngum.

Sjóðurinn lánar peninga fyrst og fremst fèlagsmönnum, og svo öðrum utan fèlags, þegar þeim liggur á, bæði til nytsamra fyrirtækja og ábatasamra kaupa.

4. Sjóðurinn geldur ekki fèlagsmönnum sjálfum vexti af því, er þeir hafa til hans lagt, fyrr en það tillag hvers eins er orðið 25 rhd. að upphæð; úr því skulu goldnir vextir 4 rbd. af 100 rbd. árlega.
5. Öllum þeim, sem að almenníngsáliti eru skilvísir menn og óbundnir veðskuldum, má lána allt að 100 rbd. án veðs, eða borgunar, en þó að eins með 3 mánaða gjaldfresti og gegn 6 rbd. af 100 rbd. í leigu. Fèlagsmenn gánga fyrir öðrum utanfèlagsmönnum til að fá slík lán, ef ekki verður lánað hvorumtveggju. Ef nokkur beiðist 100 rbd. láns eða meira, þá skal það að vísu veitt gegn 4 rbd. af 100 rbd. í leigu og fullgildu veði eða órækri ábyrgð, en þó svo, að segja megi láni því lausu með missiris uppsagnar-fresti, og því að eins, að umboðsmenn og gjaldkeri viti ekki von til, að jafnmiklu megi innan skams koma á leigu með smærri upphæðum, og á arðsamari hátt.

Sjóðinn skal geyma í sterkri og járnbendtri hirzlu með 2 lásum; hafa umboðsmenn lykilinn að öðrum, en gjaldkeri að hinum. Í hirzlu þessari skal og geyma skuldabrèfin.

## IV.

### *Rèttindi og skyldur fèlagsmanna.*

A. Yfir höfuð.

1. Þeir eiga allir jafnan atkvæðarètt á fundum.
2. Þeir mega bera upp og stínga uppá þeim breytíngum í verzlunarlögunum, sem þeim þykir við þurfa.
3. Þeir mega beiðast og bera upp undir atkvæðagreiðslu, að nefnd sè kosin til að ransaka verzlunar-aðferð fulltrúanna, og athafnir gjaldkera og umboðsmanna.
4. Þeir mega segja sig úr fèlaginu, en ekki seinna ár hvert, en á hinum síðasta fundi í vetri.
5. Meðan þeir eru fèlagsmenn, skulu þeir efla sóma þess og hagsmuni, sem þeim er auðið.
6. Þeir skulu skýra umboðsmönnunum frá verzlunartillagi sínu, og í hverju það verði látið, fyrir lok Aprílmánaðar.
7. Þeir eru skyldir að vanda alla vöru sína, sem bezt verður, og flytja hana sjálfir til kaupmanns eptir fyrirmælum verzlunarfulltrúanna.

8. Þeir skulu afhenda verzlunarfulltrúunum peninga-tillög sín, þegar þeirra er krafizt.
9. Þeir skulu koma til að taka við hinni pöntuðu vöru, hvenær sem fulltrúarnir kveðja þá til, eður og fá annan til fyrir sína hönd; gjöri þeir hvorugt, mega fulltrúarnir taka til þess mann á þeirra kostnað, og gjalda honum fyrir af vörunni, sem þeir hafa pantað.
10. Þeir skulu auðsýna forstöðumönnum fèlagsins og einkum fulltrúunum hlýðni og virðíngu, og mega ekki tortryggja aðferð þeirra eða vanþakka, nema augljóst tilefni sè til, sem þeir eru skyldir að bera upp á fundi, og beiðast nefndar til að ransaka.
11. Þeir skulu miðla af verzlunarágóðanum til fasta sjóðs fèlagsins því, sem fram yfir verður 9 rbd. af 100 rbd. og leyfa því að standa arðlausu í sjóðnum, þángað til 25 rbd. nemur, úr því fá þeir 4 rbd. af 100 rbd. í vexti ár hvert. Innstæðu þessa má hver selja sem vill, samkvæmt sýnishorninu E, en einginn fær hana goldna úr sjóðnum sjálfum í peníngum; keyptri innstæðu, sem er minni en 25 rbd., má ekki við aðra bæta. Þeir skulu og ljá leigulaust af verzlunar ágóðanum allt að 4 rbd. af 100 rbd. til lúkníngar á skuldum þeirra, sem teknir

eru í fèlagið með atkvæðafjölda með því skilyrði, að þeir sèu losaðir við kaupstaðarskuldir sínar.

12. Þeir skulu leggja sèr til á sjálfs síns kostnað 2 gagnskilabækur hver, aðra þá, er í skal rita úttekna vöru og innlagða, en hina, er gjaldkeri ritar í tillög þeirra til fastasjóðsins og til skuldalúkninga.

B. *Hinna skuldugu fèlagsmanna.*

Þeir hafa öll sömu rèttindi og skyldur, sem getið er um viðvíkjandi öllum fèlagsmönnum yfir höfuð hèr næst á undan, 1. — 3. 5. — 12. Svo skulu þeir fèlagsmenn, er losast úr kaupstaðarskuldum fyrir aðstoð fèlagsins, vera skyldir að leggja til fèlags-verzlunarinnar allan vöruafla sinn ár hvert, og fara að ráðum fulltrúa um öll hin óþarfari kaup, og forðast þau, þar til þeir hafa endurgoldið fèlagssjóðnum skuldina, er fyrir þá var goldin. Þeir skulu og skyldir að vera í fèlaginu, þángað til þeir hafa endurgoldið því alla skuld sína. Það, sem þeir fá gjaldkera upp í skuld sína, skal jafnan vera goldið í peníngum.

**A.** **Teitur Finnbogason.**

| Árið. | Lofuð innlend vara. | | | | | | | Pöntuð útlend vara. | | | | | Innlögð vara. | | | | | | | Úttekin vara. | | | | | Athugagreinir. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1848. | Ull. | Tólk. | Lýsi. | Harðfisk. | Saltfisk. | Pening. | Alls. | Korn. | Kaffi. Sik. | Ýmislegt. | Pening. | Alls. | Ull. | Tólk. | Lýsi. | Harðfisk. | Saltfisk. | Pening. | Alls. | Korn. | Kaffi. Sik. | Ýmislegt. | Pening. | Alls. | |
| 1849. | „ | „ | „ | 10 | 30 | 15 | 55 | 18 | 18 | 19 | „ | 55 | „ | „ | „ | 11 | 27 | 17 | 55 | 17 | 19 | 19 | „ | 55 | |
| 1850. | 10 | 10 | 10 | 20 | 20 | „ | 70 | 17 | 18 | 18 | 17 | 70 | 10½ | 7½ | 13 | 18 | 22½ | „ | 71½ | 20 | 15½ | 17½ | 17 | 70 | er þá til góða 1½ rbd. |
| | „ | „ | „ | „ | 100 | 48½ | 148½ | 50 | 50 | 50 | „ | 150 | „ | „ | „ | „ | 100 | 48½ | 148½ | | | | | | |
| | | | | | | | | | | | | | innistandandi frá f. á. . . . | | | | | | 1½ | 52 | 44 | 54 | „ | 150 | |
| | | | | | | | | | | | | | | | | | | | 150 | | | | | | |

**B.** Nafnaskrá til gjaldkerans og yfirlit yfir upphæð tillaganna 1848.

| Nöfn fèlagsmanna. | Tillag. | Aðal-ágóði, 14 af 100. | | Tillag til skulda-lúkninga, 3 af 100. | | Ágóði, goldinn fèlags-mönnum, 6 af 100. | | Til verzl-unar-sjóðsins, 5 af 100 | | Kvittun fèlagsmanna fyrir 6 af 100. | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| T. Finnbogason. | 55 | 7 | 67 | 1 | 62 | 3 | 28 | 2 | 73 | 3 | 28 | T. Finnbogas. |
| Þórður Árnason. | 60 | 8 | 38 | 1 | 76 | 3 | 56 | 3 | 2 | 3 | 56 | Þ. Árnason. |
| Hannes Ólafsson. | 25 | 3 | 48 | „ | 72 | 1 | 48 | 1 | 24 | 1 | 48 | H. Ólafsson. |
| J. Guðmundsson. | 40 | 5 | 58 | 1 | 2 | 2 | 38 | 2 | 1 | 2 | 38 | J. Guðmunds. |
| = | 750 | 105 | „ | 22 | 48 | 45 | „ | 37 | 48 | | | |

Reykjavík, 16. Ágúst 1848.
G. Stephensen. Th. Bjarnason.
Umboðsmenn.

Reykjavík, 9. Sept. 1848.
Jón Guðmundsson.
Gjaldkeri.

| | | 13 af 100. | | 1½ af 100. | | 7½ af 100. | | 4 af 100. | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| T. Finnbogason. | 70 | 9 | 10 | 1 | 4 | 5 | 40 | 2 | 62 | 5 | 40 | T. Finnbogas. |
| Þórður Árnason. | 80 | 10 | 38 | 1 | 19 | 6 | „ | 3 | 19 | 6 | „ | Þ. Árnason. |
| Hannes Ólafsson. | 50 | 6 | 48 | „ | 72 | 3 | 72 | 2 | „ | 3 | 72 | H. Ólafsson. |
| J. Guðmundsson. | 90 | 11 | 67 | 1 | 34 | 6 | 64 | 3 | 65 | 6 | 64 | J. Guðmunds. |
| = | 1500 | 193 | „ | 22 | 48 | 112 | 48 | 60 | „ | | | |

Reykjavík, 18. Ágúst 1849.
Torfi Steinsson. Þórar. Jónsson.
Umboðsmenn.

Reykjavík, 9. Sept. 1849.
Jón Jónsson.
Gjaldkeri.

| | | 12 af 100. | | 1 af 100. | | 8 af 100. | | 3 af 100. | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| T. Finnbogason. | 150 | 18 | „ | 1 | 48 | 12 | „ | 4 | 48 | 12 | „ | T. Finnbogas. |
| Þórður Árnason. | 40 | 4 | 61 | „ | 38 | 3 | 19 | 1 | 20 | 3 | 19 | Þ. Árnason. |
| Hannes Ólafsson. | 60 | 7 | 19 | „ | 58 | 4 | 29 | 1 | 76 | 4 | 29 | H. Ólafsson. |
| J. Guðmundsson. | 75 | 9 | „ | „ | 72 | 6 | „ | 2 | 24 | 6 | „ | J. Guðmunds. |
| = | 1850 | 222 | „ | 18 | 48 | 148 | „ | 55 | 48 | | | |

Reykjavík, 17. Ágúst 1850.
Þ. Þórðarson. D. Helgason.
Umboðsmenn

Reykjavík, 10. Septbr. 1850.
Þorst. Helgason.
Gjaldkeri.

C. Reikn-
yfir Inngjöld
**Verzlunarsjóðsins í**
frá 30. Septbr. 18
saminn af

Inngjöld.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. | Verzlunar-ágóði alls, eptir samníngi fulltrúanna við kaupmann N. N. Nr. 1. og nafnaskrá umumboðsmanna 16. Ágúst þ. á. Nr. 2, 14 af 100. . . . . . . . . . . . . | 105 | „ |
| 2. | Lèð lán frá kaupmanni N. N. eptir samníngi hans við fulltrúana Nr. 3. . . . . . . . . . . . . . . . | 350 | „ |
| 3. | Endurgoldið upp í útlagt fè til skuldalúkninga . . . . . . . . . . . | „ | „ |
| 4. | Vextir af lèðu fè úr sjóðnum eptir skilagrein Nr. 4. . . . . . . . . | 10 | „ |
| | | = 465 | „ |

Reykjavík,

**íngur**
og útgjöld
**Reykjavíkur kaupstað**
til 30. Septb. 18
N. N.
Gjaldkera verzlunarfèlagsins.

---

Útgjöld.

| | | |
|---|---|---|
| 1. Til kvittunar kaupstaðarskulda fèlagsmanna eptir samníngi fulltrúa og kvittun kaupmanns Nr. 5. og 6. . . | 21 | „ |
| 2. Verzlunarágóði allra fèlagsmanna 6 pCo. af tillögunum eptir kvittun fèlagsmanna á nafnaskránni Nr. 2. . . | 45 | „ |
| 3. Endurgjöld til fèlagsmanna fyrir útlögð tillög til skuldalúkninga. . . . | „ | „ |
| 4. Vextir af skuldabrèfum fèlagslima. | „ | „ |
| Jöfnuður, í verzlunarsjóðnum. . . . | 399 | „ |
| = | 465 | „ |

Þessir . . . . . . . . . . . . . . 399
eru 1. Lèð frá kaupmanni . . . . 350 „
2. 5 af 100, af 750 eptir nafnaskránni. . . . . . . . . . . . 37 48
3. Afgángur til skuldalúkninga 1 48
4. vextir af lèðum peníngum. 10 „
— 399

1ta Október mán. 1848.

N. N.
Gjaldkeri.

Inngjöld.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. | Eptirstöðvar í verzlunarsjóðnum 30. Septbr. 1848. . . . . . . . . . . . . . | 399 | „ |
| 2. | Verzlunarágóði, alls 13 af 100, af 1500 rbd. eptir samníngi fulltrúa og kaupmanns Nr. 1. og nafnaskrá Nr. 2. . . . . . . . . . . . . . . . . . | 195 | „ |
| 3. | Lèð lán frá kaupmönnum. . . . . | „ | „ |
| 4. | Endurgjald skuldugra fèlagslima fyrir útlagt fè til skuldalúknínga Nr. 3. . . . . . . . . . . . . . . . . . . | 18 | „ |
| 5. | Vextir af lèðu fé úr sjóðnum eptir skýrslu N. 4. . . . . . . . . . . . . . . | 18 | „ |
| | | = 630 | „ |

30. Septbr 1850.

## Útgjöld.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. | Til kvittunar kaupstaðarskulda eptir skýrslu fulltrúa og kvittun kaupmanna Nr. 5. og 6. . . . . . . . . . | 23 | „ |
| 2. | Verzlunarágóði allra félagsmanna eptir nafnaskránni Nr. 2. . . . . . | 112 | 48 |
| 3. | Apturskilað fèlagsmönnum upp í tillög þeirra til skuldalúkninga, eptir kvittun Nr. 5. . . . . . . . . . . . . . | 10 | „ |
| 4. | Af lánsfè kaupmanns til sjóðsins endurgoldið eptir kvittun Nr. 6. . | 20 | „ |
| 5. | Vextir af skuldabrèfum fèlagslima | „ | „ |
| | Jöfnuður í sjóðnum . . . . . . . . . | 464 | 48 |
| | | = 630 | „ |

Þessir . . . . . . . . . . . 464 48

eru 1. Lèð frá kaupmanni (350 — 20) . . . . . 330 „

2. Verzlunarág. sjóðsins f. ár. . 37 48
þ. ár. 4 af 100 af 1500, 60 „
— 97 48

3. Vextir, f. á. 10 „
þ. ár. . . . 18 „
— 28 „

4. Endurgjald skulda (18 — 10). . . . . . . 8 „

5. Afgángur þess, sem ætlað var til skuldalúkninga (f. á. 1 48
þ. á. — 48) . 1 „

464 48

# D.

# GAGNSKILABÓK

verzlunarfèlaga

## Teits Finnbogasonar

yfir

Tillög hans til skuldalúknínga og afdrátt af verzlunarágóða hans, sem innistendur í enum fasta verzlunarsjóð.

Byrjuð 1848.

## Tillög
til skuldalúkníngar

| | | |
|---|---|---|
| 1848. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . | 1 | 62 |

Finnur Jónsson
gjaldkeri.

| | | |
|---|---|---|
| 1849. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . | 1 | 4 |
| | = 2 | 66 |

Jón Jónsson
gjaldkeri.

| | | |
|---|---|---|
| 1850. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . | 1 | 48 |
| | = 4 | 18 |
| 10. Septbr. borgað gegn kvittun. . . . . . . . . . . | 4 | „ |
| | = „ | 18 |

Þorsteinn Helgason
gjaldkeri.

## Tillög

til verzlunarsjóðsins, sem þar verður innstæða.

| | | |
|---|---|---|
| 1848. (sjá Nafnaskrána) . . . . , . . . . | 2 | 73 |
| 1849. (— — — ) . . . . . . . . . . | 2 | 62 |
| | = 5 | 39 |
| 1850. (— — — ) . . . . . . . . . . | 4 | 48 |
| | = 9 | 87 |
| (1851 — 1852 — 1853 — 1854). . . . . . | 18 | „ |
| 1854. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . | 27 | 87 |

Skuldabrèfi fyri 27 rbd. 87 sk. og vöxtum af þeim til 11. Júní 1854, hefi eg tekið við.

Reykjavík, 16. Ágúst 1854.

T. Finnbogason.

# E.

## Framsal.

(sem áteikna skal kvittunarbók gjaldkerans, þegar einhver fèlagsmaður selur öðrum innstæðu sína í verzlunarsjóðnum).

Eg undirskrifaður framsel nú N. N., frá mèr og mínum, kvittunarbók þessa, með öllu tilkalli til innstæðu þeirrar í verzlunarsjóðnum, er hún uppáhljóðar (og skuldabrèfinu, er þar getur um, að upphæð 27 rbd. 87 sk. r. S., dagsettu 16. Ágúst 1854); er því velnefndur N. N. rèttur eigandi tèðrar innstæðu, upp frá þessum degi, og allra vaxta af henni frá 11. Júní þessa árs.

Reykjavík, 20. Ágúst 1854.

Teitur Finnbogason.

viðstaddir vottar

N. N. N. N.

